# Sampykktir

hins Íslendska

# Bókasafns- og Lestrar-Félags

á Sudurlandi.






Prentadar i Kaupmannahøfn
hiá Jóhann Rúdólph Thiele
árit 1795.



Hér hefr

# Sampycktir

hins Islendska

## Bókasafns- og Lestrar-Félags á Sudurlandi.

---

Par menn hér á Islandi vegna fiarlægdar eru svo miøg firdir hlutteknìng Rita þeirra, med hvørium mannlegt samfélag uppbyggir þann lærda heim á døgum þessum; þá hafa nockrir af Landsins innbyggéndum hér sydra tekit sig saman og lagt félagskap med sér, til þeß at fá sér árlega keyptar fyri sameginlega samlagda penínga þær lestrar-verdustu bækur frá Kaupmannahøfn, hvar af giøra skal eitt stødugt Bókasafn, til jafnra nota fyrir alla limu Félags þessa. Og til at veita fyritæki þessu áqvardat form og naudsynlegann varanleik, samqvæm þeß augnamidi, sem er: at

 Bókleſt-

Bókleſtrar-lyſt, rétt ſkynbragd, og Víſindi mættu útbreidaz innan takmarka þeirra, ſem idn og atburdir Félagſins til ná; þá heſir þat ſyriſkriſat ſér nockrar Laga-reglur, er þat ſkuldbindr ſig til at vardveita náqvæmlega.

# I. Kap.

## Um Koſníng og árs-eyri Félagslima.

§. 1.

Allir þeir limir, ſem nú eru komnir inn i Félagit, verda i því framvegis, þángat til þeir ſegia ſig úr aptr, eptir þeim ſkilmálum, ſem hér á eptir munu ſyriſkriſadir.

§. 2.

J framtídinni verdr eingi koſinn til Ordulims, er eigi á heimili i þeim 5 Sýſlum: Gullbríngu-, Kióſar-, Borgarfiardar-, Arneß- og Rángárvalla-ſýſlu. En ef nockrir Ordulimir félagſins flytia ſig ſeinna meir út úr Sýſlum þeſſum, ſkal þá ſamt ecki þeßvegna úr Félaginu útilykia, heldr ſkulu þeir haſa ſömu réttindi ſem ádr, ef þeir vilia i vera, nema þegar orduligar ſamkomur haldnar verda, því þá ſkulu þeir álitnir eins og Utanordulimir án atqvædis-réttar; en þó ſkulu Félaginu ætíd velkomnar þeirra gód-

ar

ar íhuganir, er snerta þeß augnamid, og sendar kynnu vera annathvört á almennilegann Félagsfund eda Forstødumanni. Jafnframt med innbyggéndum fyrrgreindra Sýslna verda útlendir menn álitnir, þeir er innan somu takmarka dvelia i Landinu at eins nockurn tíma ársins.

§. 3.

Allir Embættismenn andlegrar og veraldlegrar stéttar i nefndum Sýslum hafa lidugann gáng inní Félagskap þenna, einnig þeir er bóknám stunda, og annat heidarlegt fólk, ef hagir þeirra virdaz svo, at þeim megi fyri bókunum trúa.

§. 4.

Nú girniz einhverr, sá er ecki á heima i fyrrtøldum 5 Sýslum, at gánga inn i Félagit, og má honum vidtøku veita med því skilyrdi, at hann verdi eigi fyrr hluttakandi i brúkun bókanna, enn eptir alla Ordulimi, og inni þar á móti jafna vidtøku-peninga sem þeir, en þridiúngi minna árs-eyri.

§. 5.

Þá er nockurr æskir at komaz i Félagit, skal hann i tækann tíma senda Forstødumanni þeß beidni sína skriflega um þat, og álíti Forstødumadr hann vidtøku-verdann, þá skrifi brádt

 þar

þar um Félagsins Bókaverdi, sem ritar nafn ens nÿ-kosna lims i þar til giørda Adalbók; en þessi greidi Féhirdi 1 ríkisdal á móti fyri vidtøkuna, og ødlaz hann þá jefn réttindi vid adra Félagslimu eptir Samþycktum þessum.

## §. 6.

Þennann vidtøku-eyri skulu ecki Félagslimanna børn, konur edr eckiur, né menn þeirra, inna, þegar þau annathvort medan foreldrar þeirra eda menn á døgum eru, edr og innan þriggia mánada frá láti þeirra, géfa Forstødumanni til vitundar, at þau ætli framvegis at vera i félagskapnum.

## §. 7.

Venjulegr árs-eyrir sérhvørs félaga er nú 1 ríkisdalr og 48 skildíngar; en þegar tala limanna og bókanna vex i framtídinni, kann þó hér á nockur umbreyting verda, nær um þat er giørt med atqvædum flestra lima.

## §. 8.

Allir árs-aurar Félagsmanna skulu greiddir vera Féhirdi hit allraseinasta fyrir átta dag Jóla. En fyri þeirra hønd, sem hér í kann at bresta, á hann annathvort at greida peníngana siálfr, ellegar taka þá til láns hiá næstu félagslimum, á móti forvedi alls Félagsins med tídinni,

ni, svo at hvílíkt lán borgiz af næsta árs eyri, sé hlutadeigandi siálfr eigi fullvedia.

§. 9.

Nú vill einhverr skiliaz vid Félagit, og skal hann hafa gefit þat Forstødumanni og Féhirdi skriflega til vitundar fyri Mikilsmessu; hefir hann þá eingi réttindi lengr til bókanna sem adrir Félagslimir. En afræki hann at segia til þess í tíma, verdr hann framvegis álitinn sem Félagslimr, og skal því svara tilteknum árs-eyri eptir ádr mæltu.

§. 10.

Ef nockurr innanlands edr utan, hvort heldr Félagslimr ellegar einhverr annar, gefr Felagi þessu, af gédprúdligum Fødurlands-kærleik, bækur eda peninga, ecki minna virdis enn 10 ríkisdala; þá skal hans gétid í Gierdabók Félagsins, sem þess Velgiardamanns. Eins skulu adrir, þeir er máské gæfi því bækur, en þótt minna virdis, vidurqvæmilega metaz ødrum fremr af Félaginu; en framan á hveria bók, er þannig verdr gefin, eda keypt fyri gefna peninga, skal setia Giafarans heiti.

## II. Kap.

## Um almennar Samkomur og Embættis-menn Félagsins at almælltu.

§. 1.

Hvert ár skal á Alþingi haldaz almenni-legr fundr af øllum Félagsins ordulimum; leyfiz þar og øllum Utanordulimum at vid vera, þó án atqvædisréttar. Samkomu-daginn tiltekr For-stødumadr, og annathvort ágvedr hann á næsta fundi ádr, ellegar tilkynnir hann med umferdz-ar-bréfi.

§. 2.

A almennilegum fundi þessum rádslaga menn um allt þat, er virdiz naudsynlegt til at ná augnamidi Félagsins því betr, og aftaka óreglur þær, sem vera kynnu á komnar. Skal þar og Embættismenn félagsins velia, Forstødumann, Bókavørd og Féhirdi, og Adalbækur þeirra hvert ár framlagdar yfirskodaz og áteiknaz, hins fyrsta af tveim tilsettum limum, en beggia hinna seinni af Forstødumanni og tveim þartil nefndum limum. Svo skulu og greindir Embættismenn allir sækia fund þenna siálfir, nema løgmæt for-føll banni; ella senda mann fyri sina hønd, sá er og sé Félagslimr.

§. 3.

Á þessum almenna fundi hefir Forstöðumaðr forsæti, og sér um at allt fari sæmilega og hóflega fram, einnig hafi myndugleik til at útiloka frá fundinum hvern helzt lim, er í þessari grein vanrækir skyldu sína, eptir þat hann er tveim sinnum þar um forgefins advaradr. Hann samanlesi og atqvædis-ord limanna, rádi fyrir ordfæri og segi fyri bókan, en Bókavördr félagsins riti í Giördabókina á öllum þeß fundum. Þegar jafnmargir verda hvorir á sínu máli af öllum nærstöddum félagsmönnum, skal Forstöðumaðr eiga tvöfaldann atqvædis-rétt, málinu til ályktunar.

§. 4.

Í öllum framfarandi hlutum (er eigi snerta laga-setníng) gildir flest atqvædis-ord lima þeirra, sem á fund koma. En skuli annathvort breyta nockru i Félagsins prentudu Samþycktum, eda nýa laga-grein samþyckia, þá má slíkt eigi ské, nema meiri hluti Félagsins ordulima veiti þartil sitt jáqvædi. Sé nockur þeßháttar grein borin upp til samþycktar Félagsins, þá er at vísu leyft at taka atqvædisord þar um á almennilegri samkomu, þótt færri sé vidstaddir enn helmingr Félagsins ordulima; en þegar atqvædis-ord fást eigi af fleirum enn helmíngi þeirra, má sökin eigi at því sinni koma til legleidíngar, medan

 nockut

nockut brestr á sagdann jáqvæda fielda: heldr skal at eins bóka nýmælit sem upp var borit, og sídan heimti Forstødumadr skriflega atqvædis-ord hinna, er eigi vid vóru, og eptir þessum skriflegu atqvædum verdr uppborit nýmæli ann-athvort samþyckt og løgleidt, eda skotid á frest, ellegar hrakit med øllu.

§. 5.

Þá einhvørr verdr kosinn til Embættis-manns med flestum atqvædum vidstaddra og fiær-staddra lima, væniz Félagit þeirrar gódprýdi hiá limum sínum, at sá, er kosníngin lendir á, muni eigi án stærstu naudsynia skoraz undan henni. En med því hún er ábatalaus þúngi fyri slíka fé-lagslimi, og Félagit megnar ecki i upphafi sínu at gefa þeim nockr laun, þá veitiz Embættismøn-num þeß, til heidurs-merkis, fríkning frá árs-eyris gialdi.

§. 6.

Sérhvørr Embættismadr félagsins á at halda rétta útskriptar-bók, til eptirsiónar, nær sem á kynni liggia.

# III. Kap.

## Um Forstødumann Félagsins og Skyldur hans.

§. 1.

Forstødumann skulu allir Félagsmenn velia sér med flestum atqvædum; en komi þau jafnmörg á tvo, skal hinn ellsti Félagslimr álykta þar um. Forstødumadr skal vera verdugr, rádvandr, og vel at sér i bókmentum, svo hann ødrum fremr hafi góda þecking á lærdóms-efnum, sameinada med fullkomnum vitsmunum til at dæma um þær bækur er beidz verdr.

§. 2.

Eptir fremsta megni á Forstødumadr at leita Félagsins gagns og góda, vardveita Samþycktunum, og siá um at eptir þeim sé náqvæmlegá farit; einnig leitaz vid at auka og efla Félagit med addrætti nýrra lima.

§. 3.

Ágreinings allann og misklídir, er reisaz kynnu innbyrdis á medal Félagsmanna, skal Forstødumadr, ásamt tveim limum bóklærdum, semia med þeim eptir rétti og sannsýni; og skulu hlutadeigendur, at svo miklu leiti þeir eru Fé-

 lags-

lagslimir, skyldir til at halda úrskurdan hinna, án frekari ákæru, þángat til sekin verdr útkliád med flestum atqvædum á almennilegum fundi.

§. 4.

A félags=fundum ellum, hvar gagnstædar meiníngar kunna upp at koma, rædr atqvædi Forstødumanns, þegar jafnmargir eru á einu máli beggia megin. Sömuleidis ályktar hann um allt þat, er horfa kann til gagns og góda Félagsins, og ecki hagar á frest at skióta til næsta almennilegs fundar.

§. 5.

Einu sinni á ári ber Forstødumanni at líta eptir Bókasafni Félagsins, og árlega yfirskoda þeß reikníngá; en Bókavørdr og Féhirdir eru skyldir at senda hónum øll naudsynleg skilríki til þessa.

## IV. Kap.

### Um Bókavørd og Skyldur hans.

§. 1.

Bókavørdr skal vera madr lærdr, rádvandr og umsiónarsamr, eigandi heima þar er Bóksafnit stendr, edr i næstu grend vid. En beri svo til hann deyi, flytie sig á braut, ellegar annat mikils=

kilsvægt vidbnýti, þá giøri Forstødumadr nauðsynlega ráðstøfun um stund.

§. 2.

Hann á at hafa gégnumbrædda bók og løggyldta med innsigli Forstødumanns, er gierd sé á Félags kostnad. Þar í riti hann titla allra þeß bóka med sifelldri tølu og hiásetiri verdhæd sérhverrar, einninn árs tali, þá er þær komnar eru.

§. 3.

Adra bók haldi hann, á sama hátt løggyldta af Forstødumanni, og tilbúna á Félags kostnad. Þar í riti hann titla bóka þeirra, sem úr Safninu eru burt liedar, med degi og árstali, einnig nøfn þeirra manna, sem um þær hafa bedit, ásamt med tølu Bónsedlanna. Sedli þeim, sem bók nockur er afhendt á móti, haldi hann hiá sér, þángat til hún kémr aptr í Bókasafnit; hvat hann og einninn á at dagsetia.

§. 4.

Finni hann burt-lieda bók, þá er hún kémr til hans aptr, at nockru skaddada, annathvort á bandi eda bledum, á hann þegar at sýna hana næsta bóklærdum félaga, og giøri þeir bádir skriflega útmálan á tiedum skémdum, og meti þær tiltekniu verdi eptir bókarinnar stærd og dýrleik.

§. 5.

Því næst á Bókavördr án undandráttar at tilkynna þeim, er bókin var seinast lied, þær skémdir er fundnz á henni, líka þær ályktudu skadabætur; og á þim sakadi þegar at gialda Féhirdi þær, nema hann i slíkum vidburdi vili skióta sér undir endilegann úrskurd Forstødumanns.

§. 6.

Árlega skal hann og fá Forstødumanni skrifada Nafngreining á bókum þeim, er þannveg skémz hafa, ásamt med áqvednum skadabótum fyri sérhveria þeirra, og hverr þær hafi goldit eda gialda egi.

§. 7.

Á Bókasafninu ber honum þá náqvæmustu umsión at hafa, og skal utanverdt á kili sérhverrar bókar standa á vidlímdum bréfmida hennar sanna tala, og eptir tølum þessum á bókunum radat at vera í hyllunum.

§. 8.

Lyklarnir at Bókasafninu skulu i geymslu hans vera; má hann þá eingum ødrum fá, né heldr leysa nockrum þar inn at koma edr inni vera, nema siálfr hann sé vid og gái at; því hann,

hann, en einginn annar, er alltíd forvedia fyri bókunum, og á skil fyri þeim at giøra.

§. 9.

An skriflegs skyrteinis fyri láni sérhvorrar bókar, má hann eingar bækur afhenda úr safninu; en leyft skal honum siálfum at taka þadan, til eginnar brúkunar, þær bækur sem hann girnir. Þó má hann eingan veginn halda þeim fyrir ødrum, ef nockurr bidr um þær á medan. Reyniz þat hann hafi heimuglega burt-lied nockra bók úr safninu ødrum enn Félags-mønnum, á fyrreda sídar-skrifadann hátt, skal hann vera Félaginu forvedia fyrir árs-eyri þeß er bókin var lied, og sá enn sami álitiz framvegis sem félagslimr, þángat til annathvort hann siálfr segir sig úr, eda Bókavørdr giørir þat, eptir fyriskrádum hætti.

§. 10.

Um þá bresti og umbætur, er hann finna kann vid bókasafnit, skal hann ávísa Forstødumanni, ásamt med sínum rádleggíngum þarum; eptir því leyfir Forstødumadr naudsynlega vidgiørd, á kostnad Félagsins, med umstilli Bókavardar. En þó er hér um adgætanda, at slíkr kostnadr giøriz med mestu sparsemi, og eigi kaupiz fleiri bókhyllur, enn hvat eptir annat vidþarf.

§. 11.

§. 11.

Um flutníng bókanna frá skipi til bókasafns á hann at annaz, en kostnadar reikníng þartil sendir hann Forstødumanni, sem yfirskodar reikníngin og gefr Féhirdi útgreidslu = bod.

## V. Kap.

### Um Féhirdi Félagsins.

§. 1.

Féhirdir skal vera alþecktr skilamadr og fullvedia, sem valinn sé eins og fyrr er mællt um Bókaverd.

§. 2.

Hafa skal hann bók, gégnum = þrædda og innsiglada af Forstødumanni; þarí riti hann nefn allra Félags = lima, med degi og árstali, líka í dálka vidtøku-penínga þeirra og árs-aura, einnig allt inngiald annat, sem Félaginu kann til handa koma.

§. 3.

Reiknínga = bók, af Forstødumanni innsiglada, skal hann og halda yfir øll inngiøld og útgiøld Félagsins, og árlega um nýj = árs leiti senda Forstødumanni rétt út úr henni skrifadann Jafnvægis = reikning yfir þess árs tekiur og útlát.

§. 4.

§. 4.

Asamt med reikníngi þessum sendir hann Nafngreiníng lima þeirra, sem allt hafa lokit ársaurum sínum, sømuleidis hinna, sem enn þá hafa ólokit.

§. 5.

Olokna penínga Félagsins ber honum at heimta eptir rádstøfun þeirri, sem af Forstødumanni giørd verdr. Komi nockr eigi med heimtada skuld sína at þrim mánudum lidnum, frá því at Féhirdir hefir tveim sinnum ámálgat þat skriflega vid hann; skal hann (féhirdirinn) án uudandráttar tilkynna þat Forstødumanni.

§. 6.

Einga penínga má hann útgreida úr féhirdslunni, nema at Forstødumanns skriflegu bodi og þará teiknudu eda vidfestu skilríki hlutadeigauda, en tilhlýdilega qvittun veiti hann hverium manni fyrir inngoldna penínga.

## VI. Kap.

## Um Bækur Félagsins.

§. 1.

Líkt sem þat er tilgángr Félagsins, at útbreida bókkestrar=lyst, rétt skynbragd og þenkíngar=

gar-hátt, og Vísindi, um átthaga sinn i land-inu; svo suhr þat athygli sinni sérlega til bóka þeirra, sem þat álítr þángar til ens sama augnamids, med tilliti til ýmislegs ásigkomulags væntanlegra lima. Félagit velr þá helzt Sagna-bækur, Ferda-skrif, sidfrædilegar Frásagnir og Lærdóms-rit, útvalda Frædi-dikta, og yfirhöfud útvaldar bækur nytsamra og fagurra Vísinda, bædi i liódmælum og lausri rædu. En af Vísind-um skal þat vera i fyrirumi, er heyrir Náttúru-frædinni, sömuleidis Búnadar-vísi, þó ætíd med tilliti til þess heimfæringar uppá Landsins ásig-komulag. Hérfyrir eru bækur annara Vísinda eigi útiluktar, en nú i fyrstu, þángat til Félagit fær vöxt og vidgáng med tídinni, má þó at eins árlega kaupa eina bók, er heldr eintóm Adalvís-indi; en sú varúd fylgi samt jafnan vali þessara bóka, at þær séu slíkar, at flestir félagsmenn gêti lesit þær sér til gagns og ánægiu. Þau bestu af danskum lærdum Tídindum ber Félaginu hvert ár at útvega sér, til þess at fá ávísan i þeim um nýar bækur á prent gengnar. Sé nockr-rum ordu-lim Félagsins einhver bók sérliga naudsynleg til Vísi þeirrar hann stundar, skal þat at álitum giöra, þegar hagir beidandans vir-daz eigi svo, at hann siálfr gêti útvegat sér bók-ina; þó skal hún vera svo, at fleiri félagsmenn gêti lesit hana med notum.

§. 2.

§. 2.

Bækur þær, er útvegaz eigu, skulu nú í fyrstu allar vera á danska túngu; þó undantakaz hér bækur þær, er yrdu ka[illegible]iské Félaginu gefnar af einhverium gédprúdum manni; tekr þat vid þeim med þacklæti, án álits túngunnar, og þeß, hver helzt nytsöm Vísindi þær héldi.

§. 3.

Samstemma þessum undanfornu greinum, má sérhverr félagi árlega senda Forstödumanni uppskript á bókum þeim, er hann æskir at keyptar sé. Skulu slíkar uppskriptir til Forstödumanns komnar vera fyri Jól, og út úr þeim samantaki hann Bókakaups-skrá eina, med umbreyting þeirri og aukning, sem honum virdiz tilgángi Félagsins samqvæm. En ef í tiedum uppskriptum er nefnd ein edr önnur bók, er nockurr félags-limr óskar sér einkanlega, ber honum at géta þeß lióslega í sinni uppskript, og giörir þá Forstödumadr þat ödru framar at álitum; en géti þat eigi skéd sams árs, á bók sú at gánga fyrir ödrum næsta ár, sé þat eigi Félaginu um megn fram, og Forstödumanni litiz ella hún verdskuldi rúm í bóksafni Félagsins.

§. 4.

Bækurnar eigu at vera vel umvendadar, og bundnar í sterkt franskt band, ellegar annat

jafn-varanlegt. Þat er at ſkilia, þá bækurn er erú keyptar óbundnar; en ſé þær keyptar annat-hvort á almennu uppbodi, edr úr eiganda hendi, bundnar, med betra verdi, þá haldi þær ſama bandi, ſé þat at ſínu leiti forſvaranlegt.

§. 5.

Eptir upphæd goldinna árs-aura, ſkal árleg bóka kaup áqvarda; þó á jafnan nockut hiá Féhirdi afgángs at vera, er Forſtødumadr áqvardi til annara vidþurfandi útgialda.

§. 6.

Bóka-kaups ſkrána, áſamt med verdi bókanna, annaz Féhirdir um, at ſram ſenda Umbodsmanni Félagſins í Kaupmannahøfn. En at peníngum ſé eigi ſtofnat i hættu, ber at útvega, ſvo framt ſké mætti, Tilvíſun uppá þá i Kaupmannahøfn, á móti greidſlu þeirra hér i landi.

§. 7.

Umbodsmann bóka-kaupſins i Kaupmannahøfn áqvedr Féhirdir med vitund og ſamþycki Forſtødumanns. Skulu bækurnar i duglegum umbúdum, og med ávíſun til Bókavardarins hér i landi, ſendaz út hingat annathvort med ſálka-ſkipi, ellegar ødru øruggú fári, er ſiglir til Reykiavíkur. En Nafngreiníng bókanna,

áſamt

ásamt skriflegu skilríki fyri viðtøku þeirra i skipit, sendiz Forstøðumanni með einhverin øðru skipi, er híngat fer til landsins. Hendi sú óhamíngia, at skip þat fariz, er bækurnar eða peníngarnir eru sendir með, þá er skaði sá øllu Félaginu sameginlegr.

§. 8.

Þegar svo ber við, at almennileg Bóka uppboð verða uppi i landi, skal einhverr hinna nálægustu lima tilkynna þat Forstøðumanni, og senda honum Uppboðs-bóka skrána, ásamt sínu og næstu félaga uppáslagi um bækur þær, er virðaz at gêgna Félagsins augnamiði: á þá Forstøðumaðr eptir því at samantaka bóka-uppskript eina, með aukníng eðr umbreytíng, líka hiáteiknuðu verðlagi, og senda hana síðan félaga þeim er næst býr uppboðs staðnum, er at svo búnu kaupi bækurnar fyrir hönd Félagsins, skrifi Nafngreining þeirra og sendi Forstøðumanni hana með viðsettu verði, en gagnskial hennar Bókaverðlinum, sem bækurnar sækia lætr.

§. 9.

Á sérhverri bók standi tal hennar jafnvel innan til á ritað, og á fyrsta blaði teiknuð orð þessi: Tilheyrir því íslendska Bókasafns- og Lestrar-félagi á Suðurlandi; á Bókaverðr at setia slíkt á bækurnar.

## VII. Kap.

### Hve Bækurnar skuli fara um kríng á medal Félags-manna.

§. 1.

Svo skiótt bækurnar eru komnar, skái Bókavördr um at senda skrána yfir þær næst-búanda félaga i hverri Sýslu þeirri, er ordu-limir Félagsins hafa samastad i; frá honum gángi skráin hagqvæmustu leid, svo snart sem verda má, um kríng á medal félagsmannanna þar í Sýslu; og skrifi þá hvereinn á Umferdar-skialit, er aptr á at snúa til Bókavardar, hvern dag hann hafi þat fengit, ásamt þarí lagdri bóka-skrá, og hvern dag sendt þat á braut aptr.

§. 2.

Peim ný-komnu bókum sé skipt i fióra hluti nockurn veg jafna, og einn þeirra sendr med fyrstu skilaferd félaga þeim er fiærst býr i Borgarfiardar-sýslu, sá annar sømuleidis fiærst-búanda i Rángárvalla-sýslu; þadan fari bækurnar aptr mann frá manni til Bókasafnins, og hédan á ný til limanna i Rángárvalla- og Borgarfiardar-sýslum, þángat til sému bækur hafa farit um kríng medal allra limanna. Hinum ødrum tveim hlutum bókanna sé útskipt á medal félaga þeirra i Gullbríngu-sýslu, er búa næst

Bóka-

Bókasafninu, og fari aptr frá þeim, eptir réttri röd, sumpart til Borgarfiardar- og sumpart til Rángárvalla-sýslu, hvadan þær sídan sendaz til Bókasafnsins at gánga um kríng á medal Félagsmanna þeirra, sem enn þá eigi hafa lesit þær.

§. 3.

Þá einhverr felagsmadr hefir sérlega slegit uppá eina bók edr adra, sem keypt hefir verit til handa Félaginu, rádstafi Bókavørdr svo, at hinn sami verdi einn med þeim fyrstu, er fái þá bók at lesa.

§. 4.

Í þessari fyrstu umferd bókanna leyfiz aungum félags-lim at halda nockurri bók lengr enn sem allra skémst áqvedit er eptir stærd hennar á þennann hátt, nefnil. 20 daga fyrir eitt Arkastafrof, 40 daga fyri 2 þau, og eptir slíkri tiltølu lengr eda skémr. Haldi hann bók nockurri lengr enn svo, þá skulu bónsedlar annara um bækur rakaz fram fyrir hans, næsta sinn er hann bidr um nockrar.

§. 5.

Eptir þat ný-komnar bækur hafa þannveginn farit um á millum allra félagsmanna, meigu þeir á ný beidaz þessara edr annara Félags bóka, sem þá girnir, á þann hátt sem hér eptir verdr

fyrilagt. Þeim limum, er búa utan Borgarfiardar- og Kiósar-sýslu, má i hvert skipti fá 2 eda 3 bækur, þó eigi stórt yfir 6 arka-stafrof, og er þá sérhverium leyft at halda þeim einn mánud fyri stafrof hvert; en félags-limunum i nefndum Sýslum má eigi fá nema 1 bók i senn, utan hún sé minni enn 1 stafrof, ellegar samstædt verk.

§. 6.

Til at koma bókunum frá sér, þarf einginn at kosta sendimann, heldr at eins hagnýta hvert skilvíst tækifæri; og beri svo til at einhvör tálman dvelie bókanna umferd um hríd, skal tilkynna þat á opnum sedli, er fylgi med bókinni heim aptr til safnsins.

§. 7.

Þá nockurr félagi óskar at fá eina bók edr adra til láns, sendi hann til Bóksafnsins einn eda fleiri bónsedla, þó ecki fleiri enn fióra i senn, um bækur þessar, med ásettu nafni sínu og innsigli.

§. 8.

Eptir sedlum þessum afhendi Bókavördr félaga hveriúm umbednar bækur, þó eigi nema eina um sinn til þeirra er næst búa, og haldi vid Bókasafnit bónsedli hennar, til þeß hun kémr aptr; en hina bónsedlana sendi hann beidanda

aptr

aptr áſamt med hinni burtliedu bók, og teikni ádr hiá ſér tøl þeirra bóka, ſem eigi afhendaz.

§. 9.

Nú ber ſvo vid at fleiri enn einn bidia um ſømu bók, en ecki er beidz neinnar annarar i hen= nar ſtad, og má þá eigi heldr nockra adra af= henda; en þá ſkal næſti félagi vera i fyrirúmi, á þá leid, at hann fái fyrſtr umbedna bók, þó med ſkyru ſkilyrdi, at hann eptir þann tíma, ſem hér at framan er áqvedit, ſiái um at ſenda bók= ina heim er um hana bad undir eins og hann, ef ſá er i ſømu edr allranæſtu Sýſlu; en ſé hann i hvorugri þeirra, ſkal ſenda bókina aptr til Bó= kaſafnſins. Sé þat fyrra, þá haldi Bókavørd= urinn þeſſum eina bónſedli, og út gêfi þar á móti ſkriflega tilvíſun uppá bókina, hvat og tilkynnaz á fyrſta móttøkumanni, undir eins og hann fær hana, ſvo hann viti hvørium hann ſkal bókinni ſkila. En ſé hit ſeinna, þá ſkal ſenda bónſed= lana aptr til beidenda, med áviſan um hvenær þeir megi vænta ſér bókanna frá Safninu.

§. 10.

Þegar einhvørr, eptir fyrifarandi 9du grein, fær bók nockra frá ødrum félags=lim, á hann at gêfa þeim ſkriflegt ſkilríki med nafni ſinu og inn= ſigli, og þetta ſendi ſá Bókaverdi, en fái aptr bónſedil þann, eptir hvørium at bókin var af=

hendt i fyrstu; en tied skilriki skal framvegis vera vid Bókfasnit, til þeß bókinni siálfri er aptr skilat.

§. 11.

Svo skiótt nockurr félagsmadr er búinn at lesa bók eina, og hefir annathvort skilat henni eda sendt skilriki fyrir afhending hennar til annars, má hann sömuleidis á ny bidia um einhveria adra úr Bókasafninu; en sé þær umbednu bækur eigi heima, sendiz bónsedlarnir beidendum aptr, eptir 9du grein.

§. 12.

Eptir þat bækurnar, er seinast komu, hafa þannveginn farit um kríng medal allra ordu-lima Félagsins, má fyrst liá þær Utanordu-limunum, er siálfir verda at fá sér hiá einhverium Ordulimanna skrána yfir þær seinast komnu bækur; um lán og umferd bókanna á milli fyrr-nefndra lima er athuganda hit sama, sem hér at framan er fyriskrifat.

§. 13.

Hvat hér ádr i 7du grein er fyrimællt um at senda fleiri bónsedla undir eins, til þeß, ef ein bók er braut lied, at mega fá adra i stadinn, þat er sérhverium Félagsmanni leyft at nota sér, nær þeim svo þóknaz; en sé þær umbeiddu bækur

fyri-

fyrifram burt=liedar, þá skal þar um adgæta, hvat i 9du og 11tu grein er fyrimællt.

§. 14.

Hværeinn bónsedill á, sem ádr er fyrilagt, at vera med beidandans nafni og innsigli, líka dags og árs=tali, og titill bókarinnar þart stuttlega skrádr; sé bókin i fleirum pørtum eda bøndum, skal og áqvedit, um hvørn þeirra bedit sé. Hit sama skal adgæta um skilríki þat, er fyriskipat er í 11tu greininni.

§. 15.

Engi Félagsmadr má burt liá eda til lestrar fá nockra bók þeß óvidkomandi mønnum. Reynizt nockurr at yfirsjón i þessu, skal hann vera forvedia fyrir, at sá er hann liedi, ellegar annar dugandi madr, gángi inn i Félagit fyri jafnlengd, ella svari því hans vidtøku=eyri.

§. 16.

Nú ber svo til, at nockurr utanfélags=madr æski sér láns á einhvørri félags bók, og má hann fara þeß á leit vid Bókavørd; er honum leyft at liá hana burt, hafi hún at eins allt farit á millum allra félags=lima, þó med þeim skilmála, at sá, er bókina til láns tekr, ecki einúngis gefi skrifat skilríki og ved fyrir henni, heldr og einnig skuldbindi sig til at inna 6 skildínga i leigu fyrir

arka = stafrof hvert, og þó at eins hafa bók, er einu stafrofi nemr, i 10 daga, og svo framvegis at tiltolu eptir bókar stærd; leugr má hann eigi halda liedri bók, og skyldr er hann til at skila henni heim aptr, þá Bókavørdr heimtar at tiedu mæli. Hafi þá bókin at nockru skémz, haldi Bókavørdr medtekinn vedi, þángat til skadinn er metinn og bættr eptir IV. Kap. 4 grein. En ef einhverr lærdr madr nafnkendr, sem eigi er Félags-limr, beidiz bókar láns i sérlegum Vísindum nockrum, og bók sú er honum ómissanleg til Ritverka einhvørs, er hann á høndum hefir, þá leyfiz bókar lánit, gégn skriflegu skilriki, og leigulaust, megi þat ské án alls baga fyri Félagsins limu.

## §. 17.

Allt eins og þat kémr til Bókavardar, at annaz og vernda bækur Félagsins, þær sem i Safninu eru, fyrir allskonar skémdum og raka, og honum ber þessvegna, med samþycki Forstødumanns, at giøra alla naudsynlega rádstøfun á kostnad Félagsins, ella vera forvedia fyri bókunum, hvørinn sem þær skemmaz fyri vanræktar sakir: eins ber sérhverium þeim, er bidr um bók nockra, at siá svo, med eiginn kostnadi, fyrir umbúdum hennar, frá Bókasafni og til, at hun verdi ecki fyri nockurum skémdum. Auk skinns umbúda, skal láta pappírs = umslag utan um hvøria

hvoria bók, og haldi hún því jafnan, þángat til hún kémr heim aptr i Bókſafnit.

§. 18.

Hvoreinn, er bókar beidiz frá ſafninu, koſti flutníng hennar ſiálfr fram og aptr, og má alls ecki þýngia Bókaverdi med því, nema einúngis at ſveypa bókina ſiálfa i tiltekinn pappír, ſem áſamt med hinum umbúdunum ſkal ætíd koma frá þeim er bad um bókina.

§. 19.

Adgæta ſkal þeſſar ſömu reglur, þá bækurnar fara, eptir 9du grein, innbyrdis á medal limanna; og i hinu ſkriflega ſkilríki, ſem hér at framan er fyriſkipat i 11 grein, ſkal lióslega gêta, hvort bók ein ſé nockut ſkémd edr ecki.

§. 20.

Hafi bók nockur, er þannig fer um kríng, fyri ſkémdum ordit, á ſá, er vid henni tekr, þegar at ſýna hana tveim ſkilamönnum, er áſamt honum ſanni áſigkomulag ſkadans; ſegi hann ſvo Bókaverdi ſkriflega frá, undir eins og hann ſendir honum bókina; og ſkal þá Bókavørdr hér um framfara eptir IV. Kap. 4 grein.

§. 21.

Nu vill einhvörr Ordu- edr utanordu-limr Félagsins eigi gódmótlega gialda hvat honum ber eptir ádr greindu, þótt hann hafi þar um áminntr verit tveim sínum af Féhirdi og einu sinni af Forstødumanni; þá skal Féhirdir siá um at heimta slíkt, eptir rádstøfun þeirri, er Forstødumadr þar um giørir.

§. 22.

Adal-rit Samþyckta þessara skal alltíd vera i geymslu Forstødumanns, gégnumþrædt og innsiglat af honum og ødrum tveim eldstu Félags-limum. Skulu Félagsmenn allir, nú verandi og tilkomandi, ordu- og utanordulegir, þar undir teikna nøfn sín med eginni hendi eda fyri skriflega fullmakt, hvarmed þeir skuldbinda sig til at halda og hegda sér óbrigdanlega eptir því øllu, sem hér innan í er ákvedit og fyriskrád, hverr eptir því sem til hans kémr.

§. 23.

Med því tilgángr Félagsins er sá, eptir ádr mælltu, at Bókasafn þeß verdi Landsins eign, og limirnir ætla sér einúngis brúkun og gagn bókanna, þá er svo ákvardat hér um: at ef slíkt ósamlyndi eda missklíd reisti sig upp i Félaginu, sem audsiáanléga mundi kollkasta þessu

Und-

Undirlagi, er einúngis horfir Føðurlandinu til heidurs, gagns og góda, þá skal Bókasafnit ecki koma til nockurra skipta né útbýtíngar á medal félags-limanna, med því þeir hafa hér med gengit frá øllum eignar-rétti til bókanna; heldr skal Bóksafnit allt, med því er þar til heyrir, i stadinn hins, verda selt at almennilegu uppbodi, og peníngum þeim, er fyri þat saman koma, varit til umbóta eins eda fleiri fátækustu Prestakalla á Sudurlandi.



